# Rædur

vid útför

Prestsins séra **Sigurdar Jónssonar**

frá

Stadastad

---

Prentadar á kostnad ekkju hans og frænda.




---

Reykjavík.
Prentadar í prentsmidju landsins.
1849.

# Heimilis-kvedja

flutt yfir lík-kistu sál. séra Sigurdar Jónssonar 17. júní 1849 af presti séra M. Hákonarsyni.

---

Varla er nokkurr sá, er ekki finni hrygd eda hrygdarkeim snerta huga sinn, ad minnsta kosti hreifa sér hjá hverjum einum alvarlegar tilfinningar, þegar madur er lík útborinn og dökk-litud líkkista stendur fyrir sjónum vorum, er geymir hjúp einhvers þess, er var oss samferda á vegi hins jardneska lífsins, búinn til ad leggjast í fadm módur vor allra. Því enginn er til ljósari vottur hverfulleika og óstödugleika mannlegs lífs, þar þad minnir á, ad lík og söm afdrif bída vor allra, sem hjúpadir erum líkama þessa dauda; ad allrar veraldar vegur víkur ad einum og hinum sama púnkti. Yfir líki þess, sem kvadt hefir heiminn í blóma lífsins, á vordögum æfinnar, lífsins, sem hann, ad vonum, fagnadi yfir, lék áhyggjulaus og kátur vid, — yfir því flóa saknadar og trega tár; en þegar öldúngurinn, saddur æfidaga, leggur örþreyttur höfud sitt til hvíldar, þá vyrdist oss svo, sem náttúran þrædi

venjulega rás sína, og oss koma til hugar þau orð Sýraks: Þegar framliðinn er til hvíldar lagstur, þá lát kyrra minningu hans, og láttu huggast hans vegna, þegar andi hans heldur á burt héðan.

Samt erum vér allir alvarlegs hugar, sem stöndum umhverfis þessa líkkistu; vér samfögnum að vísu með sjálfum oss þeim, sem leystur er, þó sér eigi á oss gleðisvip, heldur trega og hrygðar; vér finnum til þeirrar hinnar trega-blönduðu unnnar, er það vekur, að sjá ráðvandan og hreinskilinn Jesú Krists stríðsmann halda í friði heim til drottins síns. Eg segi, að vér séum alvarlegs hugar, sem stöndum umhverfis þessa líkkistu; því að hjörtu vor komast mikilega við, af að hugsa til þess manns, er lifði svo mikinn ára fjölda og starfaði svo lengi hér á jörðu, er reyndi biltingar og áhyggjur lífsins og gekk þó rólegur og í friði til hinnar síðustu hvíldar. Það er margt, sem mætir manninum óvænt á vegferð hans, frá vöggunni til grafarinnar; margar eru þær ástríður, sem freista orku hans, margar harðar raunir geta unnið svig á vilja hans; sæll er því hverr sá, sem búinn er farsællega að ljúka baráttunni. Eg, fyrir mitt leyti, verð guðrækilegs hugar, þegar eg stend yfir moldum hins ráðvanda, og mér verður það að orðum, í bæn og ákalli: Drottinn, láttú nú þjón þinn í friði fara, því einnig hans augu eru búin að líta hjálpráð þitt.

Fjalir þessar geyma kaldann ná; ilur og krapt-

ur líkamans er hvorttveggja horfid; en í hinum sama líkama bjó fyrir skemmstu einhverr hinn fjørgasti hugur, eitthvert ed heitasta hjarta, glóandi af elsku til guds og manna, eitthvert hid tryggasta hjarta, eitthvert hid fúsasta, til ad bæta úr bøli og audsýna hverjum þeim lidveitslu, er æskti og þurfti; þad er óhætt ad fullyrda, ad liferni hans var eitthvert hid lastvarasta, hid hófsamasta og nægjusamasta, og starfsemin óþreytandi í frá æskuárum, uns eigi var lengur unnt ad starfa. Gudhrædslan átti ofarlega sæti í þessu hjarta, því vitum vér med sanníndum, ad hann bar þúnga mótlætínganna med jafnadargedi, já eitthvert hid mesta mótlæti, sem hinn alvaldi lætur mønnum ad høndum bera hér á jordu, því hann fann aldrei lystíngu sína í þessa heims gladværdum, heldur í drottins fyrirheitum til hins eilífa lífsins; brjóst hans var tjad brynju réttlætisins, og med tvíeggjadan mæki trúarinnar í hendi sér, bardist hann hinni gódu baráttunni, uppá þad hann ásídan gæti borid úr býtum réttlætisins kórónu, og til fullnustu sannad hid fornkvedna: „gráar hærur eru sæmdar-djásn, þá er þær finnast á brautu réttlætisins“.

Já, hjarta hans var heitt og fjørugt, því þad vermdi sú ást, sem er eptir Jesú Krist; hann elskadi þá sína ástfólgnu, er gud hafdi gefid honum til adstodar og yndis í lífinu, og hverrar samvistar hann naut um meir enn hálfa øld; hann elskadi hana jafnheitt hina sídustu daga, er þeim vannst saman ad vera, sem hina fyrstu og alla þar í millum, þó

aldrei heitar einn dag heldur enn annan; þetta ást-arband var hid helzta, sem batt hann vid þenna heim og hartnær hid einasta um mørg, mørg ár, upp frá þeim tíma, ad gudi þóknadist ad særa þau hjón hartnær ólæknanda hrygdarsári; Og þad var þessi ást, sem olli því, ad svo miklu leyti sem vér þykjumst ráda í rádstafanir forsjónarinnar, ad hann kvaddi heiminn á þessum stad, ad hann var einmitt hér búinn til moldar, og ad vér støndum umhverfis kistu hans. Hann var stadbúinn, ad taka ræktargóds vinar og náfrænda bodi, ad eyda því sem eptir væri lángrar æfi í nædi, vid gódan adbúnad og í ástúd-legri sambúd á fjølmennum og, ad manna áliti fremur gladværum og þægilegum stad, en — hans ástfólgnu hafdi verid fenginn annar verustadur, og þegar ad skilnadarstundinni var komid, þá vaknadi ástin og trygdin med endurnýudu afli, hann megn-adi eigi ad slíta sig frá sinni hjartakæru, eda sjá hana svo frá sér flutta, ad hann fylgdi ekki sjálfur med, auk þess, ad hugarfari hans og lifernisháttum var sambodnara fridsamt reglu og búsýslu-heimili í uppsveitum, heldur enn prjál og glaumur á svo nefndum ædri og vidhafnarmeiri stødum.

Dvøl hans hér stód eigi yfir nema adeins fáa daga, því hann bar híngad, framknúdan af ást og trygd, eldfjørgur hugur, en veikur máttur: þad lidu fáar sólir af himni frá því eg bad hann velkominn í þessar sóknir, og uns eg, ásamt ydur øllum, lýsi nú í hinnsta sinni yfir honum fridi eilífs guds. Já eylífs guds fridur sé yfir þér og med þér, sæli fram-

lidni andi! Þér þókti mál ad losast úr fjøtrunum, sem héldu þér vid jørdina, og drottni þóknadist ad veita þér lausnina fyrir sálnhjálplegan dauda. Ad vísu er oss eptirsjá ad þér, ad þér vannst ekki lengri tími til ad láta ljós þitt skína fyrir mønnum, ad þessu bygdarlagi audnadist eigi ad vera sjónarvottur ad þinni dygdugu hegdun, þinn grandvara dagfari, þinni mannkærlegu breytni; því audnadist ekki ad vera heyrnarvottur ad þínum gudrækilegu og fræd-andi ordrædum, því audnadist ekki ad sjá þess órækt dæmi, ad þad er unnt ad brúka heiminn án þess ad misbrúka hann; vér søknum þín, því oss þykir þeim eigi ofaukid hér um slódir, sem efla sidgædi, sidsemi og alla góda reglu, vér søknum þinna føgru mann-kosta, og minnumst med trega þíns kristilega dæmis í allri hegdun; ad sønnu brá ekki fyrir vor augu nema aptanskin þess, — en ilgeislar sólarinnar á føgru kvøldi, er hún sendir oss sem kvedju sína ádur enn hún sígur í ægi, þeir minna oss á, ad dag-urinn hafi verid heitur og bjartur. En — hér er ennfremur sárari søknudur enn eg fæ lýst, edur ord-um ad komid; eins og nývetni eilífrar nádar guds, langa nú, ad trú vorri, þína leystu sálu, svo flóa nú harmatár þeirrar, sem þú eptir skildir, vid ná-bed þinn; hún þekkti gjørst allra hverr þú varst, hún þekkti breytni þína í medlæti og mótlæti, hún hafdi reynt ást þína og trygd — því harmar hún og getur vart huggast látid; — en hvad segi eg: „vart huggast látid!? Jú — hún er handgengin guds heilaga ordi, hún trúir á þann, sem píndist og

dó, og sídan leiddi med upprisu sinni í ljós, lífid og ódaudleikann; hún veit ad hann lifir æfinlega til ad bidja fyrir þeim, sem hann elska og reynast trúir þjónar til daudans; hana huggar sú hin háleita von, ad ykkur muni, fyrir hina ædstu náð, audnast aptur ad hittast á eylífdarinnar landi, þar sem enginn harmur mun framar til vera, hana huggar sú hin yndæla von, ad ekki muni á laungu lída ádur þetta verdi, ad ekki muni fjarska lángt ad bída þeirrar hinnar sælu stundar, ad hún komist á þinn, -- ad hún komist á Krists fund. Af einlægu trygdar og ástar þeli tekur hún undir med mínum veika rómi, undir hugheila kvedju fyrirrádenda þessa heimilis, undir samhuga kvedju vor allra: „Fridur guds lífs„anda sé og veri med þér ad eylífu, amen". í Jesú nafni amen!

---

# Ræda

vid jardarför Emerit-prests Sigurdar sál. Jónssonar sem deydi á Raudkollsstødum i Hnappadalssýslu þann 8. jún. 1848 og var jardlagdur á Raudamel þ. 17. s. m.; haldin af presti séra Einari Sæmundssyni á Setbergi.

---

## Bænin.

Þad veiti oss Gud, sem hefir gefid oss lífid, — og en þótt morgum eins og á veiku skipi, i ólgu sjó, til medferdar ad vilja hans, — ad vér ávalt hofum þad hugfast, ad lífid er ekki vort, heldur hans, sem gaf þad, og þessvegna eigi med þad ad fara, ekki ad vorri vild, heldur hans, sem líka þá ad eins hefir fyrirheitid þvi, hvenær sem honum þóknast ad hirda þad til sín aptur, ad láta þad ødlast eilíflega sælurikan aldur med sér, og øllum útvøldum børnum sínum, sem verid hafa, eru og verda munu, svo leingi timi er til; Já, veiti Gud, ad vér hofum allt þetta, ekki lauslega, heldur svo rikt i huga, ad hin sagda sælurika von, sem vér høfum fyrir Jesúm Krist vorn Frelsara, geti ordid oss ad uppfyllingu. Þetta veiti oss Gud, sakir árnunar þessa vors medalgángara, síns sonar Jesú Krists. Amen!

---

Hæfileg eins og videigandi er útlistanin á æfi kristins manns, þegar hún samlikist hafi, um hvert sigla eigi ad vissu, af frumkvødli ferdarinnar fyrirfram tilteknu, takmarki. Hverr sem út á þetta haf er gjørdur, siglir fyrir sig. Þad er þessvegna aud-

rádid, ad um það eru eins margir siglendur, eins og til eru frjálsrædi gæddir lifendur. Æfirás manna á það sameiginlegt vid siglíngu sjóferdamanna, ad á ymsu veltur um ferdina; annar þessara hefir sífeldan, meiri edur minni medbir, þar sem hinn hefir ad strida vid ídugleg andvidri og mótbir; eins gjöra mótlæti og medlæti æfihafid ólgufullt eda kirrt þeim lifendu, og veruna á því breitilegri þeim, annadhvort ógedfelda edur gedfelda.

Skiplaust verdur ekki til sjóferda hugsad. Skip er líka úthlutad sérhverjum, sem verdur ad leggja út á æfihafid, og það er líkaminn; þetta skip reynist eptir því veikt edur sterkt, sem það hefir tekid vid fleiri edur færri göllum í gerdinni, og opt getur efnid sjálft þar um valdid miklu. Líkamaskipunum er forgeingilegleikinn jafn-eiginlegur og hinum, þau sem ekki stranda og laskast eda ekki brotna vid sker og grinníngar, annadhvort af ósjálfrádri blindni fyrirlidans, eda fyrir vangá hans, þau eldast þó loksins og verda ad ófærum hróum, og sæta nidurbroti.

An lifandi skynsamra vera, sem séu innanborðs, hugsast engin sigling edur stjórn á skipi, sem sjálft út af fyrir sig, er eins og andvana líkami. Þvílík vera er líka innan bords á siglíngu vorri um æfihafid, þar sem er vor hinn ædri hluti, sálin. Hún er á sínu skipi fyrirlidi, en þó lögmáli bundin af ædra valdi, af þeim, sem er frumkvödull ferdarinnar, svo ad hún á ad stjórna þannig, ad hún nái þeirri höfn edur lendingu, sem af þessum var ákvördud edur tiltekin, ádur enn lagt var frá landi.

Það má engum detta úr huga, að frumkvöðull ferðarinnar er Guð; og sú hofn, sem hann ætlast til að formaðurinn nái, eilíf sáluhjálp fyrir Jesúm Krist, með lendingu við land lífsins.

Til þeirra ferðar, sem á að ná svo friðu og fagnaðarsælu takmarki, þarf enginn hugsa að hlíti að gefa sig óviðbúinn; það er líka allt eins venjulegt, eins og það þar að auki er nauðsýnlegt, að sérhverr sá, sem ætlað er sigling um æfihafið, leggi þó ekki, svo að segja, strax af stað, sem skipið er fengið. Annars er varla að vænta, heldur enn að þeim, sem eru hirðulausir um tóm til undirbúnings og vanrækja að brúka það tóm, sem biðst, takist miður ferð sín, enn vera ætti, því:

Vits þarf á vegi gæta
að verjast girnda skerjum
seiðháfi vondra vofa
og voða af rauna boðum.

Þessvegna veitir ekki af þó viðbúnaður sé fýrirfram viðhafður; og hann hafa allir þeir, sem hugarhaldið er um að rata leiðina. Þeim verður að vera hugarhaldið um að safna sér fýrirfram þeim áhöldum, sem viðþarf á siglingunni, til að verjast bæði villu og voða. En hvaðan verða þau að fást? og í hverju að vera fólgin? Þau verða að fást að, fást hjá þeim reyndari siglinga mönnum, og af þeim grundvallast á því af Jesú, vorum aðal lærimeistara, leiðsagnara, og undir eins frelsara, auglýsta orði Guðs, hans eilífa Föðurs; að vera fólgin í kunnáttu kristilegra dygða, grundvalladra á vilja, boðum

og tilskipunum Guds. Þessara áhalda verdur sérhver sá ad neita, sem hólpinn á höfn vill komast; og þeirra verdur trúin, sem ad vitni Páls (Hebr. 11, 1.) er örugg eptirvænting þess, sem madur vonar, og sannfæring um það, sem hann sér ekki, það er: hin örugasta von um uppfyllingu fyrirheita Guds, ad geymast allt af innanbords, á hverju sem velta vill, á medan á siglingunni er verid, eins og atkeri það, sem sé ekki fleygjandi fyrir bord á hafnleysu, edur á annari höfn enn þeirri, hvar hann vid land lífsins verdur ad varpa því, og þarf ekki á því ad halda, kalladur frá bordi og öllum siglingum framar, til þess ekki lengur ad gánga í trú og von, heldur í skodan dýrdar Guds, á sögdu landi lífsins og sælunnar, eilíflega.

Eins og þetta reisu-takmark er nú fridt og æskilegt, eins fagnadarsæll verdur ad vera endir siglingarinnar um æfihafid, þeim sem sögdu takmarki ná; já, svo mjög: ad þó ad fyrirlidinn hafi opt ordid ad taka andvidri, og það á skipinu löskudu vid eitthvert skerid, hafi hann ei ad sidur ekki látid undan rekast og ekki fleigt atkeri vonarinnar og trúarinnar fyrir bord, heldur haldid ferdinni áfram, med þeirri orku, sem andnadist, uns hann loksins örmagna og af sér kominn, nær þessu frída og æskilega takmarki ferdarinnar, vid hvert hún er á enda kljád; þá gleymir hann allri armædunni; já, lofar Drottinn fyrir hana, því hann finnur nú til þess, ad hún hefir ekki annad vid hann gjört, heldur enn látid honum þess

meir finnast til þeirra sælda og fagnadar, sem hann nýtur nú, á dýrdarinnar og sælunnar eilífa landi.

Pad er tídt, ad vér, sem erum enn þá á ferdinni, á siglíngum um æfihafid, verdum ad reka oss á hin þannig yfirgefnu skipin, ad fyrirlidum þeirra látin í audn, svo ad kalla hvar sem stendur; verdum ad hirda þau, til ad ridja þeim úr vegi, eins og þadan af ónitum til alls, verdum ad nausta þau á til þess ætludum stodum, og um leid og vér yfirgefum þau til fulls og alls, vígja þau þar til sinnar edlislegu eydileggingar.

Til þessarar medferdar er nú eitt þvílíkt á medal handa vorra. Pad er nú ad fullu og ollu yfirgefid af fyrirlidanum, hann er flúinn frá því. Hann er genginn í land, á landid þad hid góda, hvar hann nú hefir fundid eilífan, sælríkan samastad, og hugsar ekki, því sídur lángar, til ferdalagsins hérnamegin framar, med því hann er búinn ad ná sínu tilmidada ferdatakmarki. Pad er þessvegna tilhlýdilegt, ad vér, sem nú hofum ordid ad safnast ikríngum þessar dáins leifar, í kríngum þetta í audn látna hró, stoldrum litid eitt vid á leid vorri, til ad gefa því gætur, hvernig ferdin hafdi geingid þessum samferdamanni, og hvílíkan hann hafdi tjád sig á henni.

„Séra Sigurdur sálugi Jónsson var prestsson frá Gardi í Kelduhverfi í nyrdri hluta Píngeyarsýslu. Eptir aflada menntun í Hólaskóla, vard hann fyrst adstodarprestur hjá prestinum séra Magnúsi sál. Jónssyni á Saurbæ í Eyafirdi, og kvongadist dóttur hans Elínu Magnúsdóttur, sem vid fráfall

þetta, fellir nú ekkjunnar verdugu tár, og ødladist téd prestakall eptir hann, hverjn hann og þjónadi, uns hann á 52 aldurs ári 1822 skipti þvi burtu fyrir Goddala prestakall i Skagafirdi. Hér var hann prestur i 16 ár, uns hann árid 1838, sagdi þvi, elliburda og lasleika vegna lausn, og — þar ed hann, sjálfur barnlaus, þvi þau hjón høfdu eignast barna, einn einasta son, sem hafdi burtkallast frá þessu stundlega, eptir ad hann, skamma hríd hafdi verid prestur, — þá flutti hann, eins og uppgjafa-prestur, ásamt tédri konu sinni, til Doctor Péturs Péturssonar, prests til Stadarstadar prestakalls og prófasts i Snæfells og Hnappadals prófastsdæmi, ad Stadarstad. Í þau 10 ár sem hann, eins og uppgjafaprestur dvaldi hér, tók hann ad sér tvisvar sinnum, þá sagdur Doctor var erlendis, ad gegna prestsverkum hans vegna i prestakallinn, en næstlidinn vetur, þá þess einnig þurfti vid, gat hann þad ekki, løsnunar og elliburda vegna. Sømu orsakar vegna fyrirfórst einnig sú ætlan hans, þá hann ekki lengur, af breytingunni sem vard á Stadastad, gat ordid þar, ad flytja sudur til Reykjavíkur, til systursonar sins landsyfirréttar dómara Þórdar Jónasarsonar; valdi hann sér þá ad dvalastad þann sama góda samastad, er hann var búinn ad velja konu sinni, Raudkollsstadi i Eyjahrepp, hvort hann var fyrir fáum døgum fluttur med veikustu burdum, þegar Drottni þóknadist þann 8. dag þessa mánadar, ad kalla hann burt frá þessu stundlega, med blídu og rólegu andláti, á hans 78. aldurs ári.

Hér med er þá lífs reunsli þessa vors andada medbródurs, med fæstu ordum lýst; það er nú, ef til vill, það, sem sérhverjum er ósjálfrádast, eins og hitt, hvar og hvernig það eigi sér enda. En medan á því stendur, er nokkud sameinad því, sem samt er ekki eins laust vid manninn, heldur audkennir hann frá ødrum, hvar sem hann er staddur, og hvernig sem á høgum stendur, og það eru eiginlegleikar þeir, lunderni og gáfur, hverjum hann er gæddur, eda þá temur sér. Eiginlegleikar þeir, sem hjá vorum sálnga, voru á allra vitund, voru þessir: ad hann var fjørmadur, idinn, atorku- og dugnadar-madur, búsýslumadur mesti samfara gudhrædslu, og hennar vegna er hinna ad eins getandi. Þar ad auki er honum, af þeim, sem bædi bar vit til, og kunnugleika vegna var færastur um ad meta manninn, borinn sá vitnisburdur: ad hann hafi verid madur allvel gáfadur, hafi, auk þess, sem í skóla numdi, skilid vel þjódverska túngu og enska nokkurnveginn, og hafi verid hneigdur fyrir ad lesa bækur, þá ekki var vid búnadaridju; fljótgedja hefdi hann verid, en stillt vel, samt hefdi hid mikla fjor hans leidt hann stundum til fljótfærni; frændrækinn hefdi hann verid og viljad sínum vel, hreinskilinn og lastvar, og viljad gjøra øllum rétt, og ekki viljad vamm sitt vita.

Þannig var þá varid þessum þjóni Drottins, hvers andvana líkama vér erum nú ad veita þá seinustu þjónustu. Eptir reynsludaga hérvistarinnar er hann nú kominn til hvíldar. Hann nýtur nú hvíldar eptir lokid erfidi, og sætir hrósi hinna lifendu

fyrir sýnda dáð og dugnað, er Guð hafði blessað, ekki einúngis honum og hans, heldur einnig fleirum úti frá, svo að bágt er að greina til hve mikilla á-ávarta. En þetta er verk drottins. Hversu uppbyggilegur og hrósverður, sem nokkurr getur orðið, þá er þó tignin og sóminn, sem hann getur notið af því, ekki fólginn í öðru enn þessu: að hann hafi verið verkfæri í hendi drottins; og hversu sæll er sá, hverjum andinn ber vitnisburð um að hann hafi verið það? og þó ekki væri nema að hann hafi kostgæft að vera það? En þessarar sælu njóta ekki aðrir enn þeir, sem einsog þessi vor sálaði meðbróðir, hafa erfiðað í guðrækni; því það er guðrækn-in, en ekki dáð og dugnaður án guðs, án hugsunar til Guðs, sem hefir fyrirheit, bæði fyrir þetta líf og hið eptirkomanda.

Það er guðrækninni eiginlegt, bæði að sækja og að leiða allt til Guðs, og enginn getur, án hennar, auðsýnt nokkra dygð. Þessa aðferðina hafði einnig sá hér sálaði. Minnugur þessarar áríðandi hugvekju postulans (1 Kor. 4, 7.) Hvað hefir þú það, þú ekki hefir þegið? tileinkaði hann Guði jafnan allt það gott, hvers hann naut, og færði honum það aptur með þakklátsseminni, með þeirri rétthättuðu þakklátssemi, með þeim dygðunum, sem hann auðsýndi, samkvæmt vilja guðs, með stjórn á geði sinu, með mannelsku, með hreinskilni, með réttvísi, með kristilegri ráðvendni til orða og æðis. Þetta allt eru þær fórnirnar, sem Guði líka, og þær verða ekki frambornar án guðrækni.

Já, gudrækuin er þá til alls nytsamleg, þegar hún er látin vera frumkvodullinn til alls þess, sem manninum er hid eina naudsynlega, til þess, ad geta eignast sáluhjálpina. Og þá kænu oss þau augnablikin, sem vér í dag hofum dvalid á ferd vorri til dauda sjálfra vor, vid þessar leifar daudans, vel í þørf, ef vér nú, þegar ad því kemur, ad halda frá þeim heim í vor hús, héldum þángad þá ad lærdari í gudrækninni. Þá mundi øll atorka vor og aflan, ríkar eptir enn ádur mida nálægar vegum og vilja Guds; Vér mundum ad sønnu hvergi draga oss í hlé til aflafánga, en þau søfnin mundum vér samt meta mest, sem mølur og ríd granda ekki, og þjófar fá ekki eptir grafist; vér øfludum til þess ad verda audugri á himnum. Þá skiptum vér ekki gedi voru fyrir hégóma einn og smámuni, því sídur, ad vér, án réttháttadrar ransóknar, létum írikja ráng-teknar meingjørdir; vér stjórnudum gedi voru. Þá audsýndum vér kristilega bródurelsku, med hreinskilni og réttvísi í øllum vorum vidskiptum, til orda og athafna; vér vorudumst þá ad ófrægja nokkurn med ordum vorum, leynt eda ljóst, heldur í þess stad áminntum med hógværd þann, sem þess vidþyrfti. Vér létum þá sérhvern hafa tregdulaust sitt, hvort heldur heidrun edur tolla; Vér gæfum Gudi þad, sem Guds er, og keisaranum þad, sem keisarans er; Med fæstu ordum: Ef vér létum minníngu þess rádvanda manns, yfir hvers moldum vér nú støndum, þéna til þess ad kenna oss gudrækni, þá

munudum vér taka framförum í kristilegri ráðvendni, til orða og æðis.

Ekki er það samt meiningin, að eg hvetji til þess, að vér gjörum hann að vorri fyrirmynd. Nei, sá er enginn vorra meðbræðra, meðþegna í náðarríki guðs, lífs eða látinn, sem fullkomnunarinnar vegna, verskuldað geti, að vera oss þetta; því hversu hátt sem dygð vor stígur, þá erum vér samt allir ófullkomnir, og eigum aungva sáluhjálp vissa, nema fyrir náðina. En einn er yðar meistari Jesús Kristur; Látið sama lunderni vera í yður, sem var í Jesú Kristi (Filip: 2, 5.). Í þessu er það, sem vér eigum að keppast á hverr við annan, kostgæfa að verða hverr öðrum fremri. Og þó ýmsum takist þá að skara framúr, ef vér samt, af allri orku þeirri, sem Guð gefur, sinum allir viðleitnina; þá munum vér allir, um það ólgufulla hafið, sem vér nú erum ástaddir, loksins fá leiðst að því eina og sama takmarkinu, fá náð lendingu við landið það hið fagra, hvert þessi andaði meðbróðir, og allir ráðvandir menn, héðan leystir, eru á undan oss gengnir. Friður Guðs sé með þeirra anda! Hann sefi harma hennar, sem nú grætur ekkja, og fylli brjóst hennar með von eilífs fagnaðar! Já, Guð gefi oss öllum sigur fyrir Drottinn vorn Jesúm Krist! Amen!

